# Ágrip af Æfisögu

þess nafnfræga engelska Prests

## Legh Richmond.

Þessi ypparligi madur var fæddur í Liverpól þ. 29da Janúar 1772. Fadir hans var gódur læknir. Módir hans, sem siálf notid hafdi besta uppfósturs, lagdi stóra ástundun á, ad uppfræda son sinn frá barnæsku í heil. Ritníngu. Árid 1789 var sá úngi Richmond settur í skóla í Cambrigdu, og ad lidnum 7 árum þar frá, tók hann ad hugsa sig um, hvorja stétt hann skyldi fyrir sig velja. Fadir hans æskti heldst, ad hann legdi sig eptir lagavitsku; en þánkar þessa únga manns hofdu allareidu tekid sér adra stefnu. Hann skrifadi því fødur sínum, medal annars svoleidis: „Þegar eg med gaumgiæfni ransaka vissra stétta yfirburdi yfir adrar fram, þá sé eg, ad madur þarf vel ad hugsa sig um, ádur enn hann fast ásetur, hvorja hann velja skuli. Hérumbil í fimm mánudi hefi eg alvarliga um þetta þeinkt. Eg hefi einkum sett mér fyrir sjónir, þad kyrkjuliga stand, og talsmanna standid; eg hefi frá ýmsum sjónarmidum ransakad, til hvors eg finni mig heldst hneigdann. Eg hefi og adgiætt mínar gáfur, mína bresti, mín hiálparmedøl og hvad annad, til ad geta komist ad, til hvorrar heldur, af þessum tvennslags standategundum eg mig gefa skyldi; en þó, midt í því, alltíd haft hlidsjón til þess, hvad mér og ødrum giæti uppbyggiligast ordid. En

afleidslan af þessu hefur nú ordid sú, ad eg vil helдst hid geistliga standid fyrir mig kjósa. Einginn gétur efast um, ad stand þetta er hid heilagasta og uppbyggiligasta af ollum, sem velþeinkjandi madur kann ad géfa sig til. Velgjörníngur sá, sem trúlyndur prédikari veitt gétur sínum medmanneskjum, er lángt mikilvægari ollum þeim, sem oll hin onnur embættisstønd géta í té látid."

Í Júlió 1797 tókst Richmond á hendur, ad sorga, sem Prestur, fyrir bádum þeim samfostu prestakollum Brading og Yoverland, á eyunni Wigth. Pessa heil. kollun tók hann uppá sig, med þeirri hjartans-bæn til Guds, ad han gjæti sem trúligast uppfyllt skyldur þær, er hann undirgeckst; enda féck hann og brádliga þad ord og álit, ad hann væri jafn-æruverdur sem uppbyggiligur geistligur madur. Midt í þessu skédu ogsvo hjá honum sjálfum mikilvægustu sinnaskipti. Til útvortis sidsamligs lifnadar þurfti hann alls eingra sinnaskipta vid, þar hann ádur verid hafdi stakliga sidprúdur madur, í þessa ords vanaligu merkíngu. En sinnaskipti hans vóru í því falin, ad snúa sér frá daudri verka- og sidprýdis-trú, til svo vel innvortis, sem útvortis lifanda sinnislags í kjærleikanum; og þar til hjálpadi honum nærst Guds adstod lestur þeirrar nafnkunnu bókar, eptir Wilberforce: „um Christendóm þeirra veraldliga sinnudu." Bók þessi tók svo til fánga athugasemi hans, ad hann lagdi hana ecki frá sér, fyrr enn hann hafdi hana allasaman gégnumlesid. Hann eyddi heilum nóttum til ad þeinkja um hin mikilvægu sannindi, sem þessi ágjæta bók fyrir sjónir setur. Sála hans vard svo sterkliga faungud, vid lestur hennar, af innvortis

heil. drist, ad hann, fyrir Guds náð, sundurbrotið fékk girdíngar þær, í hverjum hann ádur var sem innilokaður. Hann hlaut ad viðurkenna med sjálfum sér, ad hann væri fordæmíngarverdur syndari; og sannfæríng þessi knúdi hann til, ad flýa til hins krossfesta, og ad leita hjá honum fyrirgéfníngar. Svo ólastanlig sem hegdan hans hafdi alltíd þángad til verid, fann hann þó nú til þess, ad hjarta sitt væri ecki ad ollu réttiliga Gudi ábángandi. Þessvegna helgadi hann nú eptir þetta allann sinn tíma, gáfur og tilhneigíngar, til þess ad þjóna Gudi og sínum Frelsara, og ad sorga fyrir sér tiltrúads safnadar andligu velferd. Þessu næst var hans adalvidleitni, ad leita einúngis í ritníngunni sjálfri ad sannleikanum, og sídan, midt undir eptirþánka og brennandi bæn til Guds, ad ausa hann úr þessum brunni, og meddeila hann sídan ødrum. Hér ad auki las hann, med stærstu íhugun, ritgjørdir ýmsra trúarbragdanna endurbætara, sem stadfestu því framar hjá honum hans allareidu feingnu sannfæríngu. Um ástand hugarfars síns á þeim tímum skrifadi hann sídar, einum af vinum sínum, á þennann hátt: „eins og annar úngur nýgvígdur prédikari hafdi eg mitt erfidi byrjad, í aldeilis veraldligum anda. Eg bygdi mína opinberu uppfrædíngu á þeim hálfvilltu imindunum, sem eg á mínum stúdents árum inndruckid hafdi frá mínum stallbrædrum. En djúpleg yfirvegan þess ágjæta verks eptir Wilbeforce lét mig þeckja villudóm minn, og knúdi mig til ad ransaka heil. Ritníngu, med þvílíku kappi, sem eg aldrei hjá mér ádur fundid hafdi. Mitt hjarta lærdi nú ad audmýkja sig, og leita nádar hjá mínum Frelsara, hvar alleinn veita kann þann frid, sem veröldin gétur ecki

gèfið. Eg fèck ogsvo færi til að rannsaka ritgjörðir ýmsra trúar-endurbætara, og eg fèll í furðu yfir þeirra samhljóðun, í tilliti Lærdómsins, við það, sem Evangelíum kennir. Eg veit sjálfur, hvörsu fyrir nockrum árum ástadt var í hjarta mínu, svo eg hlýt að viðurkénna, að eg á umbreitíngu þá, sem í því skèn er, einúngis að þacka því, að eg trúi nú sannleika Evangelii; á hvörjum öll mín von, um tíma og eilífð, einúngis bygð er." Þessi eru hans orð.

Árið 1801 stofnaði Richmond samkomu í Brading, er haldast skyldi eittsinn í viku hvörri; útlagði hann þá fyrir þeim samankomnu heil. ritníngu og aðrar útvaldar bækur, þeim til uppfræðíngar og uppvakníngar. Máti sá brúkaður var á samkomum þessum, var hjartanligt guðligt samtal, miðt í hvörju hann gaf andsvar til allra þeirra spurnínga, sem fyrir hann settar vóru, út af ritníngunni og trúarbrögðunum yfirhöfuð, og endaði síðan með bæn til Guðs, um blessun hans, yfir alla nálæga, yfir þau heimili, frá hvörjum þeir vóru, samt yfir allt landið, og yfir gjörvalla christiliga kyrkju.

Á eyunni Wigth skèðu og svo tilfelli þau, sem Richmond í nockrum andligum smáritum útlistað hefir; hvörjir ritlíngar eru nú á tímum víða útbreiddir í christnum löndum. Nefniliga sá fyrsti, um þá úngu Jóhönnu, sem var ein af laugardags skóla-börnum Richmonds, og sem frumgróði hans Prestsembættis-verka í Bradings sókn. Sá annar er um Elísabetu Daymanns dóttur, sem heima átti í Arveton, þorpi nockru, er lá tvær mílur frá Brading. Þessar manneskjur heimsókti Richmond opt, einkum þegar þær láu sínar banalegur. Það er ómöguligt að lesa þessar merkiligu frásögur, án þess

madur finni til vidkvæmrar hræringar í hjarta sínu. Sá þridji ritlíngurinn er um negra-þræl nockurn, frá hvörs umvendun ad sagt verdur greiniliga. Hinn lockandi stílsmáti á Ritgjördum þessum, og þær fögru náttúrunnar afmálanir, sem blandadar eru inní frásköyrslu siálfra tilfellanna, hefur medframm ollad þess, ad þær svo vída útbreidst hafa og þeirra evangelisski sannleiki feingid inngaungu í margra hjörtu.

Í tilskrifi einu til nockurs vinar síns útlistar Richmond þánka sína á fylgjanda hátt: „Eg hefi, segir hann, sídan vid fundumst seinast, lesid margar gudligar ritgjördir. Þess framar sem eg kunnugur verd skrifum og talsháttum þeirra rithöfunda, sem sannarliga frómir og hleypidómalausir eru, þess sannfærdari verd eg um þad, hvörsu mikilvægur ad Christindómurinn er.

Í þeim líffreptugu trúarbrøgdum Jesu, finnst þvílíkur vísdómur, sem madur ver aldrei ofmiklu til ad géta øðlast. Þad er óseigjanliga lærdómsríkt ad siá þad, med hvílíkum frómleika þeir gömlu rithöfundar héldu alvarliga fast vid þann lærdóm, sem menn nú á døgum skúfa, og kalla methódiskann, púritaniskann, pietiskann og jafnvel fanatiskann. Sú bókstafliga meining trúarbragda vorrar kyrkju, er grundvøllur allra þeirra útskýringa og ritníngarinnar útleggínga. Sú af gódum verkum ávartarsama trú á þá heil. Guddóms þrenningu, er upphaf og augnamid allra þeirra þánka, rædna og ritgjörda. Menn munu kannské seigja, ad Gudfrædiskénnendur á þessum døgum samsinni og svo þessum sannleika; þad er ad vísu satt; en þeir brjóta þad, því midur, eingu ad sídur allt nidur aptur, þegar þeir ecki byggja prédikanir sínar trúliga yfir þann sama grundvøll. En ad

vísu má madur játa það, og það er í verunni glediligt, að um hríð, nú að undanförnu, hafa margir kénnendur tekið að fylgja odrum prédikunarmáta.“ Þessi eru Richmonds orð í bréfinu til vinar síns.

Árið 1805 skildi Richmond við Bradings prestakall, og varð kapellan á hospitali einu í Lundún; en rétt á hinu sama ári tók hann að sér prestakallið í Túrvey, í greifadæminu Bedford. Þorp þetta hafdi, ádur enn hann þángað kom, verið stórum vanrækt. Guðsþjónustugjörð hafdi verið þar mikið óregluliga framin; og hún var á sunnudögum ecki haldin nema einusinni, þó þar væru, í hið minnsta, 800 innbyggjarar í sókninni. Kyrkjan var ecki í neinum metum hjá fólkinu, og það var sockið í dýpsta þeckíngarleysi; og eptir því fór ogsvo siðferði þess og lifnaður. Þegar Richmond kom þángað, hafdi þvílíkur ordrómur borist á undan um hans gúdrækni og merkiligu gáfur, að allir þar í grend vóru rétt sem uppvægir. Texti sá, sem hann brúkaði til sinnar fyrstu predikunar, er hann þar héldt, var (1 Cor. 2) þessi: „eg áleit mig eckert að vita meðal ydar, nema einúngis Jesúm Christ, og hann Krossfestann.“ Richmond lagði nú ástundun á, undir eins og hann var til þessa safnaðar kominn, að innleiða regluligt og ydugligt Guðsþjónustugjordar-hald. Vanaliga héldt hann hvorn sunnudag tvær messur eður embættisgjörðir fyrir þá fullorðnu; og þaraðauki að kvöldi þá þriðju, sem ágvorðuð var einkum fyrir úngdóminn. Sitt prestliga vikuerfidi byrjaði hann, með að innleiða sínar svo nefndu „Kotbæa-Kvöldstundir“, sem haldnar voru hvört þridjudags kvöld, í húsum hinna fátæku. Augnamið hans með þessu var, að géta með-

beilt þeim á þann hátt enn þá nákvæmari uppfrædingu, enn í kyrkjunni møguligt væri. Á føstudaga kvøld héldt hann í kyrkjunni frjótt andligt samtal vid fólkid, ad þó ádar lesnum þeim vanaligu kyrkjubænum; og í hverjum mánudi lét hann þá, á hverjum laugardeigi, koma saman í kyrkjunni, sem, á sunnudaginn eptir, ætludu ad gánga til Guds bords. Hann héldt ogsvo í viku hverri Gudsþjónustu í erfidis=húsunum. Þó takmarkadi hann ecki, vid þessar obinberu ýmisligu uppfrædíngar athafnir, sína presligu umsorgun fyrir safnadarins andligu velferd, heldur fylgdi hann þaradauki dæmi síns Herra og Meistara, um hvørn sagt verdur: „ad hann hafi geingid umkríng og gjørdt fólkinu gott," ecki ad eins med sínum kraptaverka lækníngum, heldur og med sínni uppfrædíngu og kénníngum. Optliga kom hann á heimili þeirra fátæku, og útskrádi þar því dýrmæta Guds ords sædi, og lærdi þar med undir eins ad þeckja þad andliga ástand sálnanna; og andsvor þau, sem hann féck hjá fólkinu, notadi hann sér í sínum prédikunum þann næsta sunnudag á eptir. Þessar hans prestligu húss=vitjanir studdu ei allítid til þess, ad gjøra hjørdina handgeingnari hyrdir sínum. Þessvegna sókti fólkid kyrkjuna því betur, og sunnudagurinn vard ad sannkøll=udum gudsdýrkunar deigi medal þeirra, svo menn hlack=udu til hans hjartanliga, í hvørt sinn, fyrirfram. Evangelíum var þá svoleidis af honum bodad þar med andligri smurníngu og trúskap, og semuleidis hlýddu til=heyrendur hans á þad, med hátídligri gaumgjæfni. Margir umvendtust af fullri alvøru; og enda þeir, hvørra hjartalag ei fullkomliga umbreyttst gat, lærdu þó ad hafa, ad minsta kosti, Christindóminn í heidri, og

að hegða sér útvortis ráðvandliga. Prédikanir Richmonds, sem nákvæmliga fylgdu ritníngarinnar orðum og anda, settu fólkinu stöðugliga fyrir sjónir, hvorsu að á milli þess mósaiska siðalögmáls, og sannleika þess nýa sáttmála, væri fast og nákvæmt samheingi. Því eins og sjálfur hann var sannfærður um, að „án helgunar kynni einginn Guð að sjá," svo brýndi hann líkasvo lærdóm þennann alvarliga fyrir sínum tilheyrendum. Richmond var í eiginligri merkíngu sannur mælskumaður; en hann hafði þó þá einföldu og náttúrligu mælsku til að bera, sem umflúði og forðaðist alla tilgjörð, hvor einúngis verkar einslags kitl í ímindunum annara, en nemur ekki staðar í hjartanu. En eins og tal hans frammkom af inniligri tilfinníngarsemi í hjarta sjálfs hans, þá er hægt á að gitska, að hans eigin tilfinníngar-gátu fljótt þreyngt sér inn hjá hans tilheyrendum, og fest þar rætur. Eingin kunni betur enn hann, að heimfæra efni það, sem hann í prédikunum sínum útlistaði, til hjartalags og lifnaðar betrunar, og þá varð hans guðliga mælska alvarliga átakandi og hrífandi; og með þessu móti fékk hann kroptugliga til fánga tekið hjortu og samviskur þeirra, sem til hans heyrðu. Hann „straffaði, ógnaði og áminnti, (eins og postulinn býður 2 Tim. 4, 2) með allri þolinmæði og kénníngu." Í sínum áminníngum leiddi hann aptur og aptur fyrir sjónir þau allra mest hrærandi merki miskunsemdar, maktar Guðs og náðar, og það undir þúsund ýmisligum afmálunum; og þetta gjörði hann með þvílíkum andakrapti, sem þreyngdi sér sterkt inní annara hjertu; og það gjörist ekki þörf að bæta því við — því það er sjálf sagt — að Jesús Christur var einasti miðpúnktur allra hans kénnínga.

Í tilliti þeirra orðatiltækja, er hann brúkaði í ræðum sínum, lét hann sér alltíð hugfest vera ráð þau, sem lærimeistari hans nokkur á háskólanum hafði gefið honum, svolátandi: „brúkaðú aldrei nein heimspekilig orðatiltæki, í kénníngu þinni, almúginn hefur ei skarpleika til að skilja þau; hann skilur eingar þær samlíkíngar, sem dregnar eru af þeim hlutum og siðvenjum, er hann þekkir ekki, ellegar af þeirri upprunaligu merkíngu grískra og latínskra talsháttá, þar hann slíkt ekki lært hefur. En útmálaðú þó þann sama þánka á ýmisligann hátt; og berðu sérdeilis umsorgum fyrir því, að þú hafir siálfur, um efni það, þú útmála vilt, klára ímindun í þínu eigin brjósti. Þetta er það vissasta meðal til að láta aðra skilja sig rétliliga.“ Svo sem nú Richmond var sannfærður um, hvað ráð þessi gild og góð væru, þá plagaði hann svoleiðis að fylgja þeim og hlýða, að sá fáfróðasti og vesælasti partur safnaðar hans, — og þess háttar var þó optast mesti hluti hans tilheyrenda — gat auðveldliga skilið hann og hans prédikanir. Vanaligast prédikaði hann fríhendis úr brjósti sínu, án þess fyrirfram að hafa hugsað sig um orðalag og stílsmáta, heldur lét hann að eins á undan gánga brennandi bæn til Guðs, og niðurröðun ræðunnar höfuð-atriða. En þegar hann þó í fyrstu gjörði tilraun til að prédika svoleiðis fríhendis, þá hann var á eyunni Wigth, kemst hann í mestu vandræði, svo hann skammaðist sín svo mjög fyrir það, að hann hugsaði sér aldrei að reyna það, í annað sinn. En þó sem áður síðar meir, tilknúður af þreyngjandi viðtali vina sinna, reyndi hann til þess aptur; og honum lukkaðist það þá svo vel, að

hann uppfrá því gat brúkað aðferð þessa, án allrar torveldni.

Árið 1814 varð Richmond prestur Hertogans af Kent, foður-bróður þeirrar núverandi Drottningar á Englandi. Þegar hann var í stöðu þessari, hlaut hann stundum að prédika á slotinu Kensigton. Einn dag var Hertoginn og Hertoga-innan, ásamt allri þeirra fylgð, við hans prédikun. Hertoginn hlýddi á hann með djúpri gaumgjæfni, og játaði fyrir honum, eptir prédikunina, að sér hefði gedjast hún mikið vel. Hann bætti og þeim orðum við: að mikilvægi þeirra evangelisku sanninda, sem hann svo hátíðliga hefði í prédikun sinni útmálað, væru svo berspýniliga klár og skjær orðin fyrir augum sér, að hann æskti einkis framar, enn að hann mætti ennnú kroptugligar reyna, í hjarta sínu, verkan þeirra og sannfæringu. Hann kallaði hann þessvegna inn til sín uppá slotið, og skipaði honum, að hann skyldi í hvört sinn, sem hann þar í staðinn kjæmi, prédika þar á slotinu hjá sér. Að kvöldi þess sama dags skrifaði hann Richmond mikið náðugt bréf til, í hvörju hann bað hann að koma til sín uppá slotið, og sýna sér uppteiknun efnis þess, út af hvörju hann um morguninn prédikað hefði. Til þessara Hertogans tilmæla hafði orsök gefið stríðsstal, sem komið hafði upp milli manna þeirra, er hjá Furstanum voru, út af Richmonds prédikun. Þar höfðu nockrir staðið á því, að það ómögnligt væri, að nockur maður skyldi með þvílíkri orðgnótt og greind géta prédikað, án þess hann hefði þann mesta part prédikunar sinnar að minsta kosti, uppskrifaðann haft. En þegar þeir sáu nú, það sem Richmond uppskrifað hafði, fundu þeir, að það var svo stutt og lítt útfærðt, að allir féllu í

stærstu forundrun. Vér minnumst á þetta tilfelli hér þessvegna, ad þad sýnir vitni til þess, hvorsu yfrid létt ad þessum Gudsmanni veitti, ad halda fríhendis rædu, fyrir hvorjum sem vera skyldi, rétt ad seigja án alls undirbúníngs.

Richmond hafdi, med hjálp þeirra yppurstu geistligu manna í stóra Bretlandi tekid fyrir sig, at útgéfa ritgjördir þeirra engelsku kyrkjufedra, í 8 bindum. Verk þetta var mjøg mikilvægt og innihaldsríkt, en verd þess var fyrir alþýdu fólk allt of hátt. Þessvegna urdu offáar bækur af því seldur, til ad géta borgad kostnadinn; og árid 1814 komst Richmond, sér til gremju, ad því, ad sá sem kostad hafdi til upplagsins hlaut ad gjalda 50 þúsund franska dali, sem hann gat þó ecki med ødru móti lokid, nema hann seldt gjæti bækur þessar. Þetta tók svo á Richmond, ad vinir hans sáu þad á honum; þó hlutu þeir ad gánga fast á hann, til ad komast eptir orsøk hugarángurs hans; því vidkvæmni sinnis hans gjørdi honum þann þánka: ad þurfa ad bidja neckurn adstodar, yfirmáta pínufullann. Midt í þessu tóku þeir ad sér, ad gángast fyrir útsali þessarar stóru bókar, og þeim géck þad svo luckuliga, ad á færri enn 15 mánudum var øll skuldin lokin.

Jafnvel þó Richmond skipti sér annars mjøg lítid af peninga sokum, sýndi hann þó ogsvo í þessu tillíti samvitskurikustu náqvæmni. Med sinni embættis-inntekt, gat hann því á sómasamligann hátt komist af, án þess ad verda nockrum skyldugur, jafnvel þó hann hefdi ad sorga fyrir uppfóstri sinna 12 barna, af hvorjum ad tvo ad eins dóu á únga aldri.

Þegar sá rússiski keysari Alexander, árid 1814,

heimsókti England, komst Richmond á fund hans fyrir staklígt tilfelli. Hann var staddur í Portsmúth uppá háum turni, til þess ad géta ofan af honum, med hjálp kíkirs, litast út um, og sied allt landsplátsid, sem þar í kríng var. Rétt í sama bili bar fyrir hann keysarinn, med ollu hans föruneyti, hvor þá stefnir ad turninum, og stígur uppá hann. Richmond var í sama augnabliki reidubúinn ad víkja frá keysaranum, og géfu honum pláts á túrninum, til þess ad géta sér til ánægju sied út um landid. En keysarinn vildi ecki þyggja þad, og sagdi: „líkliga þeckid þér, minn herra! nofn allra þeirra stada, sem sjást hédan áleingdar.“ „Þad held eg, ydar Majestet! svaradi Richmond, eg géti sagt hvad allir þeir stadir heita, sem hédan verda med augum sjenir“ og í sama bili tók hann kíkirinn upp, og stillti hann til þeirra ýmsu púncta, þar út um landid, sem keysaranum þókti nockud umvardandi, eptir ad grenslast. Eptir þad hann hafdi sídan átt þar lángt og mikilvægt samtal vid keysarann, sagdi Richmond, ad hann vildi nota sér þetta tækifærl til ad þacka hans Majestet, í nafni allra vina þess engelska Bibliufélags, fyrir þá merkiligu adstod, er hann þeim veitta hefdi, til ad géta útbreidt Guds ord til blessunar í Rússlandi; þá svaradi keysarinn: „þad er lángtum framar mín skylda, minn herra! ad inna ydar landi, og vinum þessa fyrirtækis, mitt þacklæti; því hefdu þeir ecki geingid á undan oss, med fínu eptirdæmi, þá hefdum vér í Rússlandi aldrei feingid neitt Bibliufélag.“ Þessi voru keysarans ord. Nockrum mánudum sídar sendi Richmond þau merkiligustu smárit sín keysaranum; fyrir hvor keysarinn lét þacka honum, med hardla

velvildarfúllu tilskrifi, og sendi honum þaraðauki dýrmæta heidrunar-gáfu.

Í Júli mánudi 1818 skrifadi Richmond egtakvinnu sinni til, um þá reisu sína, er hann gjørdi í gégnum Skotland, á þennan hátt: „óaflátanliga koma mér hér fyrir augu þau tilfelli, sem óseigjanliga mikilvæg eru fyrir mitt hjarta, og um hvör eg vona, ad þau enda fyrir vora húsligu lucku muni ecki ógagnlig verda. Eg hefdi aldrei gétad gjørdt mér ímindan um, ad minar Missións-reisur gjætu haft svo blessunarrikar afleidslur fyrir mig og adra, sem eg nú kominn er ad raun um. Gud alleinn þeckir þær sætu tilfinningar med hvørjum eg uppfyllst hefi, af því ad komast ad raun um, hvørsu góda vidtoku eg siálfur, svovel sem smárit mín og prédikanir feingid hafa í Skotlandi. Eg er út af því aldeilis fullur af forundrun, þacklátsemi til Guds og audmýkt. Til dæmis hér uppá, vil eg seigja þér frá einu tilfelli, sem bar til þegar eg kom í sunnudags skóla nockurn. Nær eg ransakad hafdi skólabørnin, sem voru hérum 2 hundrud ad tølu, hóf eg einslags upporfunar samtal vid þau. Þau hofdu samansafnad milli sín nockru peninga tillagi, handa gydinga børnum; og þetta skédi á þeim deigi, sem útbýta átti bókum medal þeirra (svo sem í ydnis launa skini), er alltid skédi einusinni á hvørju missiri. Nú voru þad 60 af þeim, hvør, svo sem frábærust, feingu laun þessi, og var þá hvørju þeirra géfid 1 sticki, af smáritinu „um þá litlu Jóhønnu." Þrjú af þeim, fyrir hvørjum ad smárit þetta hafdi í skólanum upplesid verid, urdu, undir lestrinum, inniliga hrærd og uppvakin. Menn létu svo børnin gánga til mín, og bádu mig undir eins ad géfa hvørju

þeirra 1 stíki af sögdu smáriti, og voru þar nærstaddar hérum 200 persónur af ýmsum stöndum. Þetta var mjög hátídligt og hjartahrærandi augnablik. Sídan héldt forstödumadur skólans stutta rædu, í hvorri hann frambar sitt þakklæti til Guds, fyrir allt þad góda, sem útbreidsla minna smárita á Skotlandi, og sérílagi í þessum skóla, verkad hefdi. Hann bætti og þeim ordum vid: eg grip þetta tækifæri, sagdi hann, ad láta öll börnin fá ad sjá þann mann og þekkja, sem þau leingi hafa allareidu af hjarta elskad. Eptir þessi ord tölud tóku allir nærstaddir, stórir og smáir, ad sýngja sálm einn í flocka-skiptum; og af hvörju einu auga drupu tár á medan. En eg, fyrir mína persónu, vard ad þvínga sjálfann mig mikiliga til ad géta haldid þad út, ad vera vid þessa einföldu hjartahrærandi hátíd, allt til enda. Litil stúlkukynd, hvörri ad Guds nád hafdi fyrir tveimur árum alvarliga umvendt, var svo sterkliga hrærd, ad þegar hún nálgadist mig, kastadi hún sér á kné, tilbidjandi Gud, midt undir straumi af tárum." Þannig skrifadi nú Richmond til konu sinni. Eitt annad bréf frá honum, er hann skrifadi til sinnar eldstu dóttur, hljódar þannig, sem fylgir: „mín kjæra Maria! eg skrifa þér nú þetta bréf til á mínum fædingardeigi, og þó undireins í tilliti þíns eiginn fædingardags; því, eins og Salómón seigir: „ad fædast hefur sinn tíma, og ad deya hefur líka sinn tíma." Á þessi ord hins vísa kóngs minnist eg þessvegna, ad á milli þessara tveggja tímans púncta liggur þad millirúm, sem óendanliga mikilvægt er, og sem þú, kjæra barn! væntanliga veitst réttiliga ad meta. Öll sú prýdi náttúrunnar, sem í öllu Englandi og Skotlandi er, kémur, þó hún

í eitt samanlögd sé, í eingann samjöfnud vid þau andlígu gjædi, sem Guds nád frambýdur oss, adeins á einu augnabliki. Aldrei gétur oss berligar fyrir augum blasad það, hvörsu sálir vorar dýrmætar eru, hvörsu heimur þessi er fánýtur, og hvad oss mikid ridur á Endurlausnaranum, enn á því augnabliki, þegar hlaup lífsstunda vorra setur oss fyrir sjónir vorn fædíngardag, og svosem leidir oss til baka til vors lífs uppruna. Þessi dagur líkasem innibindar í sér allt hvad vér reyndt höfum á þá umlidnum tíma æfi vorrar, og undireins allt það, sem vér höfum oss ad vænta til framtídarinnar. Hann er einn sá dagur, sem talar med jöfnum krapti og mindugleika, svo vel til úngmennisins sem þess aldrada, hann hrópar til beggja jafnt, ad þeir þeinkja skuli um hagi sálar sinnar, og tilbidja Gud af öllu hjarta; því snarliga mun eilífdin líka sem uppsvelgja allt það, sem oss í þessari forgeingiligu veröldu tilheyrir og vidkémur; og eg óska af öllu hjarta, ad þú notir þér þinn lífstíma, til ad horfa fram á þá komandi eilífd. Hvörsu margföld tækifæri hefur þú til þess haft; hvörsu mörg medöl hafa þér bodist, til ad nota þér tímann réttiliga? æ skyldir þú þá vilja tapa til ónýtis einum einasta af dögum þeim, sem Gud vill unna þér ad lifa í þessum heimi? Það, ad hafa umgeingni og kunníngskap vid Christid fólk, gétur, út af fyrir sig, eckért hjálpad þér: ney! trúrækni hjartans er það mikilvægusta fyrir sérhvörja manneskju. Hugsadu ad sönnu til ockar allra, sem þér skild erum; en þó ecki einúngis vegna skildugleika blódsins eptir náttúrunni, heldur ogsvo vegna elsku til Jesú Christs, sem sameinar oss, med andligum skildugleika, vid þann stóra Guds barna sofnud

á himnum. Þessi þánkamáti er sá einasti sem tilleggur vorum náttúrliga kjærleika og elsku sitt sanna verd." Þessi var nú kjarninn úr bréfi Richmonds til þessarar dóttur sinnar.

En loksins viljum vér nú meddeila lesendunum innihald eins bréfs, er hann skrifadi til syni sínum Wilberforce, þegar hann nád hafdi 15 ára aldri. Þad hljódar, sem fylgir: „Þú minn kjæri sonur vekur mér meiri áhyggju, heldur enn öll önnur mín börn. Eg geymi ad sönnu þá heitu ósk í hjarta mér, ad einn minna sona, mætti prestur, edur kénnimadur verda. En eg skélf og titra þó yfir þessum þánka, ef eg skyldi láta nockurt mitt barn takast þad heilaga embætti á hendur, sem ecki hefdi fyrir augum minum í ljósi látid, áreidanlig merki þess, ad sála hans sé svo hreinskilin, sem vera skal fyrir Gudi, því sé hún þad ecki, þá steyptum vid ockar bádir í skélfiliga sékt og synd fyrir Guds augliti. Hvorja adra stétt og köllun sem madur útvelja kynni, þá gétur hann allareidu laungu fyrirfram tekid þad áform fyrir sig; en í tilliti prestsembættisins er því allt ödruvísi háttad. Sjálfur sá heil. Páll var skjálfandi og óttasleiginn af þeim reikningsskap, sem á sér lægi í þessu tilliti; þar hann var hræddur um, ad þó ad hann prédikadi ödrum, kynni hann ad verda sjálfur rækur (1 Cor. 9, 27).

Adur enn einn úngur madur, sem ágvardar sig til prests-embættis, géti med sannri hreinskilni hugsad til ad

takast það á hendur, hlýtur hann, með hegðun sinni að hafa í ljósi látið vissustu merki þess, að hann sannarliga umvendtur og guðhræddur orðinn sé. Svo stór æra og gleði fyrir mig sem það verða mætti, að vita þig vera orðinn einn sann-trúlyndann prédikara réttlætisins, þá vil eg þó aldeilis ecki dylja þig þess, heldur seigja þér það hreint út: að mér væri þúsund kjærara, að þú tækir fyrir þig eitthvört annað stand eður handverk, enn að þú verða skyldir trúlaus, latur og dofinn Christs þénari. Eg tala þetta af eigin reynslu. Því miðt í því eg blygðast nú fyrir Guði vegna þess, með hvörju hugarfari og þánkamáta eg inngéck siálfur prests embættið, svo er eg dauðhræddur og skiálfandi að hugsa til allra úngra manna, sem inní þetta heil. stand géfa sig; og hvörsu mætti eg þá miklu heldur vera það, þegar eg hugsa til minna eigin barna. Vors föðurlands kyrkja má þúngliga andvarpa yfir því, að hún dagliga sjer og reynir svo marga óverðuga géfa sig inní þetta heil. stand, til að verða orðsins þénarar. Á sérhvörju ári er líkasem annað vatnsflóð af úngum mönnum, sem frá foreldrum, formindurum og háskólum strejma inn í kyrkjuna, hvörjir þó ecki eru hæfir til að uppfylla skyldur sinnar köllunar; og með þessu móti verður skuldareikníngur vorrar þjóðar æ stærri og stærri fyrir Guði; og hvað sjáum vér af þessu fljóta annað enn það, að sú rétta umsorgun sálnanna verður æ meir og meir vanrækt, svo þær fortapast eilífliga. Fá-

frædi, og það sem enn vera er, skynhelgi og hræsni, fer ákafliga í voxt; og kyrkju-dramb undirþrycktir sannann heilagleika. Hvað þarf madur því að furda sig yfir, þó hann sjái, að sú núverandi kyrkja komist í foragt, verdi áreitt og yfirgéfin? og skyldum við þá — þú og eg — vilja auka og verka til þessarar stóru ólucku? skyldum við stoda til þess, að við tolu þeirra svikulu og vantrúudu vaktara, sem standa á múrum vorrar Bretsku Jerúsalem, verdi bætt einum fleiri? Æ Gud vardveiti ockur þar frá! En þú, minn Son! gétur hjá þessum sorgligu forlogum sneidt, ef þú nú strags tekur fyrir þig, að verda sannur Jesú Christi lærisveinn, fullur af ydrun, audmýkt og heil. vandlæti. Já, þá mundi eg sannarliga gjora mig róligann, ef eg kjæmist að vissri raun um, að þú ydkadir bókmentir, med því sann-gudliga hugarfari, sem verkad fær, ecki að eins hlydni í hjarta eins sonar, og kjærleika í hjarta eins bródurs, heldur og svo heita tilbeidslu med þacklæti og elsku til Guds í hjarta sanntrúads Christins manns. En svo leingi eg veit ecki fyrir víst, að þetta skéd sé, hvorsu kann eg þá, med samvitsku rósemi, að samþyckja því, að þú innvígdur og settur verdir til þess mikilvægasta og heilagasta af ollum embættum, sem manni kann hér í heimi tiltrúad verda? já, eg gét aldrei af mér feingid að láta vígja þig, svo leingi eg ecki af þinni hegdun, þínu sinnislagi, þínu tali og fyrirtækjum gét berliga komist að raun um, að þú hafir það í þínu

hjarta geymt, sem í mínum augum, þvílíka mikilvægustu fyrirtekt fyrir víst réttlætt gétur. Eg skrifa ord þessi med skjálfta, og mér fellur mjøg þúngt med pennanum framar ad útlista, mína þánka í þessu tilliti; og Gud veit ad eg gjøri þad midt undir heitum bænum til hans um umvendun þíns hjartalags; og eg vona hann muni þessa mína grátbeidni bænheyra, hvörri eg, sídan fyrir mørgum árum hefi, þínvegna fyrir honum úthellt. O ad þessur línur mættu þéna þér til vitnis þar um, fyrir Gudi! geymdu þær þessvegna, svo þær séu sem teikn eitt á millum mín og þín, fyrir hans augum! þær meiga minna þig á þad, ad eg hefi med fullri hjartans alvøru talad vid þig um þvílíkt eitt efni, hvar jafngildi og hálfvelgja væri allra stærsta synd."

Þessi voru ord Richmonds í bréfi til sonar síns. Nockrum árum þar eptir hlaut hann ad reyna þá sorg, ad hann, fyrir daudann, vard ad sjá á bak þessum únga manni, sem sýndi merki til gudhrædslu, og hafa vyrdtist allann hæfiligleika til ad verda trúr Christi þénari. Líkasvo misti hann sinn elsta son, sem géfid hafdi sig til sjómanns þjónustu. Bædi þessi daudsføll geingu Richmond mjøg til hjarta, samt tapadi hann ecki hugmód sínum, heldur fann ætíd aptur ad nýu krapt í sér til ad vegsama hina dásamligu Guds rádstøfun.

Nú komum vér til ad minnast nockud á þaug sídustu æfi augnablik þessa ypparliga og saun-æruverda

geistliga manns, hvers erfidi, allt til hans sídurstu endalyktar, fylgdi staklig blessan. Á þeim fyrstu tveimur sunnudögum Marts mánadar árid 1827, var þad sem hann í seinasta sinni, sást á prédikunarstól. Vid þá fyrri af tveimur þessum hans sídurstu prédikunum var sá madur nálægur, sem fyrir laungu hafdi heitid því fyrir sér, ad hann skyldi ei framar í hans kyrkju gánga, af því hann meinti, ad presturinn hefdi sneidt sig í einni rædu sinni. Sá sami var léttúdarfullur og skeytíngarlaus madur, og undir eins bitur fjandmadur allra þeirra, sem hofdu ord á sér, fyrir gudhrædslu. En á þeim deigi, sem hann nú kom til kyrkjunnar; brógst hann, fyrir óvæntar kríngumstædur, til ad breyta á móti sínum ásetníngi. Richmond hafdi þennann dag valid sér til texta prédikunar sinnar, þaug ord, sem standa í Sálm. 51, 12: „skapa þú Gud í mér hreint hjarta, og géf mér einn vissann anda!" Nú greip Guds ord, sem fyrir krapt þess heil. anda var þar til mektugt gjørdt, hjarta þessa vantrúada manns, já greip þad, eins og hamar sá, sem klettinn í sundur molar. Hann uppvaknadi og þessvegna nú, í allra fyrsta sinni á æfi sinni, féll á kné fyrir Gudi, og hrópadi til hans, midt undir voldugum táraslraumi, eins og tollheimtumadurinn fordum: „Gud vertu mér syndugum liknsamur!"

Þann nærstkomanda sunnudag voru prédikanir Richmonds stakliga hátidligar. Um morguninn prédi-

kadi hann yfir ord postulans Col. 3, 2: „stundid eptir því, sem þar uppi er!" Prédikun þessi midadi eiginliga til þeirra, sem væru sannir Christi lærisveinar, og setti þeim kroptugar huggunar ástædur fyrir sjónir. Í eptirmiddags prédikun sinni sneri hann tali sínu til samvitsku þeirra sofandi syndara, med ordum þeim sem stánda í Sálmi Davíds 119, 52, 53, svo hljódandi: „Drottinn! nær eg hugsa til dóma þinna frá eilífu, verd eg huggadur. En eg brenn af vandlæti yfir þeim gudlausu, sem yfirgéfa þitt lögmál." Þegar menn geingu nú úr kyrkjunni, sagdi einn madur: „þessi prédikun kom af vörum eins deyanda manns."

Eptir þennann tíma fór sjúkdómur sá, sem Richmond tekid hafdi, magnliga vaxandi. Eitt nýtt og stridt áfall af honum kom ennnú yfir hann, sem gjördi þad ad verkum, ad hann gat ecki talad nema í hálfum hljódum; þó samt veitti torsókt, ad telju hann frá því, ad láta flytja sig til kyrkjunnar. En brádliga fór þó svo, ad hann vard ei framar fær um ad koma út af húsi sínu, og menn tóku ad efast um, hvert hans elskadi sofnudur mundi nockurntíma sá ad sjá hann framar. Hrygd og sorg breiddi sig nú út um alla sóknina, og sofnudurinn bad óaflátanliga til Guds fyrir honum (ad honum mætti aptur batna); en tíminn var kominn, ad hann skyldi inngánga til sínnar hvíldar. Richmond deydi sídan þ. 8da Maii 1827;

55 ára ad aldri. Jardarför hans skédi á hatídligasta hátt; og einn þeirra manna, sem var sjónarvitni þar ad, ber hann vitnisburd þarum: ad hann aldrei sied hefdi eins djúplæga og hreinskilna sorg, eptir nockurn daudann, eins og hann, í þad sinn, á fólkinu sied hafi. Svoleidis vard þessi ágjæti madur flestu sínu sóknarfólki harmdaudi.

---

Hversu eptirtecktar-verd er frásaga þessi! hún sýnir þad, ad til ad vera sanngódur prestur, nægir einganveiginn ad eins, ad vera vel-lærdur, og útvortis tækiliga sidsamur madur; þetta eru ad sönnu allsögur Saudaklædi (Matth. 7, 15); en ef Ulfurinn (þad er allslags holdligt sinnislag), er ecki ogsvo, fyrir sanna umvendun til lifanda Guds, úr hjartanu útrekinn, dugir hitt aldeilis ecki.

Ei nægir heldur ad koma nafninu á svokalladar messu-gjördir, og enda ecki þó brúkadar séu málsnotrustu prédikanir, ef hjarta prestsins er ecki uppfyllt af Guds anda, og heilagri drift ad efla Jesú ríki í mannanna, og einkum sínna tilheyrenda hjörtum, fyrir „ydrun til Guds og trúna á Jesúm Christ" (Pgb. 20, 21); og þessi andansdrift verdur sýna sig ecki sídur utan kyrkju enn innan. Svoleidis breytti sá sæli Richmond, sem sagan fráskýrir. Líka siest af bréfi hans til sonar

síns, hve mikid rídur á sann-gudligum þánkamáta hjá þeim, sem til þess heil. kénnimanns embættis vilja géfa sig; og þessvegna blasir bert fyrir augum, hve mikill vandi og skylda liggi á þeim, sem eiga ad undirbúa, samt velja og kalla adra til þessarar stjettar, og loksins géfa gjætur ad, hvørsu trúliga þeir fódri „søfnud Guds, er hann med sínu blodi útvegad hefur" (Pgb. 20, 28). Eingir þessir meiga hafa „leigulida skapsmuni" (Joh. 10, 12). O hvørsu mikid rídur á „trúum hús-stjórnara" sagdi Jesús (Luc. 12, 42), og ef þeir, sem vera eiga „salt jardar, dofna, med hvørju skal þá salta" (Matth. 5, 13). O ad menn húgsudu eptir þessu! en af því þad gleymist stundum, þá fer sem fer alltosvída!

Hérum má ogsvo lesa Nr. 40 þessara Smárita.

Kaupmannahøfn, 1843.
Prentad hjá S. L. Møller.